// Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

9 árg. WINNIPEG, DESEMBER 1894. Nr. 10.

## Á annan jóladag.

Eftir séra *Valdemar Briem.*

Lag: Guð Jehóva, þig göfgum vér.

1. Hinn sami' í dag og sami' í gær,
hinn sami' er Jesús nær og fjær,
hinn sami' í dimmum sorgahríðum,
hinn sami' á björtum gleðitíðum;
hér er hann enn hinn sami, sem
vér sáum fyr í Betlehem.

2. Í Betlehem er blítt og rótt,
þar breiðist yfir friðsæl nótt;
á himni dýrðarljósin ljóma
og lofsöngsraddir fagrar hljóma
um fegrð himins, frið á jörð
og föðurást á barnahjörð.

3. Í Jerúsalem strangt er stríð,
þar stendr yfir myrkrahríð;
þar gellr spilltra heimsku-hlátr,
þar heyrist særðra kvein og grátr;
í musterinu bunar blóð,
í blindni veðr drottins þjóð

4. Í Betlehem er barn oss fætt,
er blóð fær stillt og sár fær grætt.
Það himinbarnið blíða' og góða
er bót við meinum allra þjóða.
Þess blessun þiggja börnin góð;
þess blessun hafnar gjörspillt þjóð.

5. Í Jerúsalem Jesús er,
en Jerúsalem gleymir sér;
hún leiðir hann til harma' og nauða
og hrindir loks í krossins dauða.
En Jesú blóð og kvalakross
frá kvöl og dauða frelsar oss.

6. Hinn sami þar og sami hér,
hinn sami Jesús vertu mér.
Haf þakkir fyrir fæðing þína
og fyrir það, er vann þín pína.
Að þú varst barn oss blessun lér;
að blóð þitt rann vor frelsun er.

---

## Látið ekki hugfallast; ekkert er að óttast.[1]

Eftir *Thorv. Klaveness*, prest í Norvegi.
Í íslenzkri þýðing eftir séra N. Steingrím Þorláksson.

Allt, sem af guði er fætt, sigrar heiminn, og vor trú er sigrinn, sem hefir sigrað heiminn. En hver getr sigrað heiminn, nema sá, sem trúir að Jesús sé guðs sonr? 1. Jóh, 5, 4. 5.

Um þessar mundir er söfnuðr drottins kvíðandi,— kvíðandi og kvartandi. Tímarnir eru vondir, er sagt; kirkjan er stödd í hættu, heimrinn er henni gramr og heimrinn er sterkr.

Ætl' ekki óhætt muni vera að segja, að þetta sé tilfinningin, sem kallað hefir þennan fund saman.

Fyrsta orðið, sem talað verðr á þessum fundi, sé þá þetta: *Bræðr, látið ekki hugfallast; ekkert er að óttast.*

Naumast verðr því neitað, að tímarnir eru alvarlegir, enda

1) Ræða, flutt í byrjun hinnar fyrstu almennu prestastefnu í Norvegi, er haldin var í Kristjaníu 12. Okt. síðastl. og næstu daga Voru þar saman komnir undir 250 prestar.

eru tímamót. Eitt tímabil er að ganga til grafar og annað nýtt að ryðja sér til rúms. Slík tímamót hafa sífellt í för með sér baráttu og hættur. En mun þetta vera í fyrsta sinni, að kirkja Krists hefir orðið að ganga í gegnum aðra eins eldraun? Fjarri því. Minnizt þess, er hún hóf göngu sína í heiminum. Hún var þá eins og lítill einmana hópr á dreif, og yfir hana fleygði sér hið stóra og drembiláta ríki Rómverja, til þess að gjöra út af við hana. Minnizt tíma hinna miklu þjóðflutninga, þegar villtir mannflokkar veltu sér yfir kristnina og út leit fyrir, að hún myndi kafna í heiðindómi og villudómi. Minnizt þess, er undir lok miðaldanna heimrinn var nær því eins og að leysast upp og lygi og siðleysi fyllti kirkjuna. Minnizt þess, er undir lok síðustu aldar gömul þjóðmenning var aftr komin á fallanda fót og hin aumasta og andlausasta skynsemistrú þandi sig nær því á öllum prédikunarstólum. Var sigrazt á kirkjunni? Nei, heldr komst hún sigri hrósandi út úr öllu þessu. Það, sem virtist ætla að verða henni að fjörtjóni, vakti til lífsins hinn hulda kraft, sem bjó innra með henni. Öfl ruddu sér til rúms, er enginn hafði nokkra hugmynd um, uxu og unnu sigr, og kirkjan náði undir sig hinum nýja tíma og tók stórt stig áfram að takmarki sínu.

Það reyndist satt, gamla orðið postulans: „Allt, sem af guði er fætt, sigrar heiminn, og vor trú er sigrinn, sem hefir sigrað heiminn.

Hví skyldi ekki eins fara enn? Bræðr, látið ekki hugfallast; ekkert er að óttast!

Á einu ríðr þó: að vér gjörum sjálfum oss ljósa grein fyrir því, með hverju kirkjan hefir sífellt unnið sigr sinn. Vann hún sigr með hinu ytra fyrirkomulagi sínu? Nei; hið ytra fyrirkomulag hennar var sífellt að uppleysast og breytast eftir því, sem tíminn tók stakkaskiftum, og var oft mjög bágborið. Vann hún þá sigr með hinu skilmerkilega kenningarkerfi sínu? Nei; á þeim tímum, sem kirkjan háði sín mestu stríð — á fornöldinni og siðbótartímanum —, var kenningarkerfi hennar einmitt á reiki; mannsandarnir glímdu hver við annan og hinum ýmsu skoðunum lenti saman. Ekki fyr en seinna, að sigrinum unnum, mynduðust hin skýru og föstu lærdómskerfi. Með hverju vann þá kirkjan sigr? Allsendis eingöngu með því, sem

postulinn kallar vora *trú*. Hvaða trú? þeirri trú, að Jesús er guðs sonr. Hver getr sigrað heiminn, nema sá, sem trúir, að Jesús sé guðs sonr. Óneitanlega stutt trúfrœði. Vitanlega var það ekki setningin, að Jesús er guðs sonr, sem vann sigrinn. Að læra eitthvað utanbókar og álíta það satt að vera, veitir engan sigr. Að eins það, sem af guði er fœtt, sigrar heiminn. Hin innri *vissa*, sem af guði sjálfum er fœdd, þessi vissa: hinn lifandi guð, sem heldr himni og jörð í almáttugri hendi sinni, hefir opinberazt; vér þekkjum hann; vér sjáum beint inn í hið hulda djúp hjarta hans; hann hefir opinberazt í Jesú frá Nazaret, í honum, sem dó vegna synda vorra og vann sigr yfir syndinni og dauðanum með upprisu sinni frá dauðum; í honum hefir hann opinberazt sem sá guð, er afmáir misgjörðir og fyrirgefr syndir og gjörir auman syndara að barni sínu og veitir honum eilíft líf. *Vissan þessi*, gróðrsett í sálu mannsins af anda guðs sjálfs, fœrði hinni friðsnauðu og vonlausu mannssál frið, öruggleik, von, fœrði hinu fátœka mannslífi gleði, sem hvað eftir annað ruddi sér farveg með ómótstœðilegu afli og lagði undir sig hina nýju tíma. Vor *trú* er sigrinn, sem hefir sigrað heiminn.

Vinir, þegar á tímamótum stendr og heimrinn — og með honum kirkjan—er í hamskiftum, þá er alltítt, að hið ytra fyrir komulag kirkjunnar fer a ðláta á sér sjá; þá heyrast brestir og brakhljóð í hinni gömlu kirkjubygging; loft og veggir hrynja. þá fara kenningarkerfin líka að láta á sjá; andinn brýtr af sér hlekkina; rannsóknarandinn vaknar; spurningar rísa upp; hugsunum er fleygt út, margsinnis mjög óþroskuðum, mjög ósönnum hugsunum. þá verða kristnir menn skelkaðir; þeim finnst kirkjuskipið vera að farast; þeir grípa utanum brot úr flakinu, brot úr gömlum formum og brot úr gömlum formúlum; þeir halda dauðahaldi utan um þessi brot eins og þegar skipbrotsmenn halda sér dauðahaldi utan um skipsflökin. Vinir, ekki svona hræddir! Vér erum alls ekki neinir skipbrotsmenn. þótt ríkiskirkjufyrirkomulagið leysist sundr og ýmiskonar forn tilhögun í kirkjunni fari um koll, þá erum vér engir skipbrotsmenn fyrir það. Vor *trú* lifir eins góðu lífi fyrir það og býr sér til nýtt fyrirkomulag og kemr á nýrri tilhögun eftir þörfum hinna nýju tíma. þótt um kenningarkerfið sé deilt og skoð-

anirnar verði skiftar og margt atriðið í hinum gömlu formúlum reynist miðr vel hugsað og miðr vel myndað, þá erum vér engir skipbrotsmenn fyrir það. Vor *trú* lifir eins góðu lífi fyrir það og býr til gleggri hugsanir, ljósari formúlur. Látið því ekki hugfallast. Ekkert er að óttast.

Já, að vísu, segir þú; en við hvað eigum vér að styðjast, þegar öllum stoðum er kippt undan oss? Og á hverju á að byggja, þegar allt kemst á ringulreið? Á *vorri trú*, vinir. Því að hvað er trú vor? Það, að Jesús er guðs sonr. Og hann stendr, þótt allt annað falli. Hann verðr samr við sjálfan sig, þótt um skifti og breyting verði á öllu öðru. Þótt hásætin hrynji, þótt ríkiskirkjurnar hrapi, þótt kerfin fari um koll, þá er og verðr Jesús sá, sem hann er. Hann hefir sigrað dauðann; hann er við guð guðs hœgri hönd; honum er gefið allt vald á himni og jörðu, og hann er höfuð kirkjunnar; kirkjan er hans líkami; málefni kirkjunnar á jörðunni er málefni hans. Hvað óttumst vér þá? Þótt tímarnir breytist og margt gamalt og göfugt molni af elli milli handanna á oss og nýtt ryðji sér til rúms, sem ekki hefir enn þá verið prófað og reynzt ekta, er nokkur hætta á ferðum fyrir það, þar sem Jesús lifir og ríkir og heldr um stjórnvöl kirkjuskipsins og ræðr ferð þess yfir hinar œðandi öldur? Hinn krossfesti og upprisni, hinn eingetni sonr guðs, hann er sjálfr hið stöðuga, hið óforgengilega og óumbreytanlega í kirkju sinni. Hann er tryggingin fyrir því, að kirkjan hans muni standast alla storma og halda áfram og ná undir sig hinum nýju tímum og leiða mennina áfram til meira ljóss og ríkara lífs. Er þetta ekki nóg? Lifandi persóna með guðdómlegu almætti í hendi sinni og hrósandi sigri yfir synd og dauða og djöfli, myndi það ekki vera nóg stoð, nóg trygging, nóg vissa? Gjörist á meiru þörf? Nei, oss er ekki þörf á neinu meiru. Oss er ekki þörf á neinum brotum að bjarga oss á. Vér erum engir skipbrotsmenn. Látið ekki hugfallast; ekkert er að óttast.

Af hverju er þá sprottinn kvíði vor og hræðsla? Vinir, af því, að þessi trú, sem postulinn kallar *vora* trú, er nú ekki algjörlega vor. Væri hún vor í sannleika, ættum vér hana, tryðum vér því sannarlega, að Jesús er guðs sonr, tryðum vér því með trú þeirri, sem af guði er fœdd, þá myndi upplit vort vera

djarft og kvíðalaust og vér bíðum storma tímans öruggir og með vissri von um sigr.

Hér er hættan, vinir. Hættan fyrir kirkjuna á vorri tíð er ekki vantrú antíkristindómsmannanna; nei, hættan fyrir kirkjuna á vorri tíð er vantrú *kristinna manna*. Hinir fyrstu kristnu menn gátu líka haft ástœðu til þess að kvíða og kvarta. Og sennilegt er, að þeir hafi líka fundið til kvíðans og heyrzt hafi kvartanir hjá þeim. En yfir höfuð að tala gengu þeir þó á móti stormum tímans með hugrökku uppliti, vissir um sigr, og — sigruðu. Eða réttara sagt: Jesús sigraði í og með her sínum, sem viss var um sigrinn. En hrædd og huglaus og kveinandi kristni ber sjálf í barminum ósigrinn. Þær láta svo alvarlega í eyrum, grafraddirnar, sem heyrast svo oft af kristnum vörum yfir spilling tímans og bágindum kirkjunnar. Og vissulega er sönn alvara í þeim og kærleikr til drottins og safnaðar hans. En alveg heilbrigð er hún þó ekki, sú alvara. Það er ekki örgrannt um, að þær séu sprottnar af vantrú, þessar grafraddir, enda útbreiða þær vantrú, vantrúar-hugleysi í hópi kristinna manna og vantrúarfyrirlitning á kirkju og kristindómi hjá þeim, sem fyrir utan standa. Með kveini og kvörtunum rekum vér á burt frá oss allt það, sem heilbrigt er og sterkt í tímanum, því hugleysi og hræðsla hrindir hinu heilbrigða og sterka frá sér. Og þó ættum vér einmitt um fram allt að ná í hið heilbrigða og sterka. Sannarlega er tími kominn til þess, vinir, að vér úthýsum kvíðanum og kveinstafirnir hætti að heyrast og vér minnumst þess, hver það er, sem er leiðtogi vor og höfuð kirkjunnar. „Hann víst skal velli halda.“ Hvað er trú vor, þegar vér erum svona huglausir? Eitthvað, sem vér höfum lært, eitthvað, sem vér álítum sé satt, vegna þess vér höfum lært það. En hvar er trúin, sem af guði er fœdd, neistinn, sem kveiktr er að ofan, guðdómsneistinn, sem lýsir og vermir og funar og logar? Þessi trú var leyndardómr þeirra manna, sem vöktu til lífsins kristindómslífið á vorri öld — manna eins og voru þeir Löhe, Harms, Grundtvig, Johnson. Vér, sem uppi erum á eftir þeim, getum ef til vill bent á margt breysklegt og einhliða hjá þeim; en þetta áttu þeir: trú, sem af guði var fœdd. Guð hafði náð haldi á þeim í hjarta þeirra; sjálfr faðirinn hafði dregið þá til sonarins. Myndi ekki þetta vera það,

sem oss skortir helzt til mikið? Myndi það ekki vera mein kirkjunnar nú á tímum, þetta: trú vor er fremr lærð af bókum heldr en hún sé af guði fædd? þetta mein er djúpt. En hver er lækningin við því? Lækningarinnar er að leita í yfirbót og bœn, yfirbót vegna vantrúar vorrar, játning, auðmjúkri játning hins andlega sinnuleysis vors og svefns, volœðis og vesaldóms; bœn, auðmjúkri bœn í duftinu fyrir augliti hins upprisna frelsara vors, bœn um andann af hæðum, er hann á og sendir, bœninni, er eitt sinn var beðið með yfir oss, er vér vígðumst til hins helga embættis:

„Andinn guðs lifandi, af himnanna hæð,
heimi' er til blessunar kemr“ o. s. frv.

---

## Friðþægingin.

Fyrirlestr eftir *Fredrik Petersen*, prófessor í Kristjaníu.

(Framhald frá Október-nr inu).

þegar því samvizkan dœmir eða leiðir einhvern nútíðarmann, þá er það ekki hinn persónulegi vilji guðs, sem fyrst og fremst vakir fyrir honum, heldr ópersónuleg hugmynd hans sjálfs um það, hvað rétt sé. Og áhrif dómsins, sem samvizkan fellir, verða fyrir bragðið mjög mismunandi. Eg segi ekki, að niðrstaða dómsins verði önnur. Um það, hvort eg hafi gjört rétt eða órétt, breytt vel eða illa, verða dómarnir samhljóða. En áhrif þau, sem dómrinn hefir á tilfinning mína, verða mjög ólík. þau verða vægari, ónærgöngulli, ef eg dœmi mig að eins eftir hugmynd minni um hvað rétt sé; þau ná ekki eins langt niðr að rótum lífs míns, snerta hjarta mitt tiltölulega lítið, og opna því ekki heldr dýpstu uppsprettur lífsins.

Ekki vil eg, að sá skilningr sé í orð mín lagðr, að maðr geti ekki kennt sárrar sorgar, fyllzt gremju og iðran út af meðvitundinni um að hafa breytt illa. það getr hœglega komið fyrir, þó að maðr sé ekkert að hugsa um dóma annarra manna, er fyrir þá sök verði út yfir mann látnir ganga, og líka þó að maðr sé laus við alla auðmýkjandi fyrirlitning fyrir sjálfum sér. Hinu ópersónulega sambandi mannsins við réttlætishugmyndina getr hœglega verið samfara bæði hryggð og iðran. Eg segi, að þetta g e t i komið fyrir. En þar sem samband mannsins við

guð er persónulegt, þar eru áhrifin önnur og langtum dýpri. Og þar sem guð er persónan, sem um er að ræða, þar leiðir af sambandinu viðlíka alvara og sannleiksást eins og kemr fram, þá er maðr veit af sér augliti til auglitis með dauðanum. Það er alkunnugt, að þegar einhver á dauðastundinni kallar til sín ástvini sína, þá sleppir hann öllum vífilengjum; aðdáanleg dómsgreind kemr þá fram hjá manninum; hann talar blátt áfram og sannleikrinn birtist í hverju orði, sem hann segir. Svona er afleiðingin af því að finna til þess, að maðr stendr augliti til auglitis við guð.

Hvernig er tilfinning vor, er oss er það ljóst, að vér höfum breytt öðruvísi en vér áttum við einhvern þann, sem oss í sannleika þykir vænt um? Oss kemr eigi til hugar að verja málstað vorn eða afsaka oss. Hvernig sem vér kunnum að haga orðum vorum, þá er það víst, að sá er eigi tilgangr vor. Vér verðum sár-aumir með sjálfum oss, og sú tilfinning yfirgnæfir allt annað. Ef þetta kemr ekki fram hjá einhverjum, þá sýnir það að eins, að honum hefir í rauninni ekki þótt neitt vænt um þann, er hann braut á móti, eða að kærleikrinn hjá honum hefir orðið að þoka fyrir uppáhaldi hans á sjálfum sér.

Hvað er það, sem skapar þessa tilfinning? Tvö öfl eru hér samverkandi; annað er hin siðferðislega réttlætismeðvitund, en þar við bætist hitt: elska til persónunnar, sem á móti hefir verið brotið. Og það er þetta síðar nefnda afl, sem nær svo miklu valdi á rótum hjartans sjálfs. Fyrir það afl fær réttlætismeðvitundin miklu meira líf og miklu meira vald yfir gjörvallri persónu vorri heldr en hún nokkurn tíma annars getr fengið. Athafnalíf vort verðr fyrir það meira hraðfara; þungi þess verðr meiri, og þol og þrautseigja, sem annars bar svo lítið á, heyrir nú til aðaleinkenna þess.

Eg tók hér persónulegt samband manna á milli út af kærleikanum til dæmis. En sama verðr ofan á, þó að í stað kærleika ráði einhver önnur tilfinning, ekki sízt ótti, eða blygðunartilfinning. Skal eg þá sérstaklega nefna annarra manna dóm um oss, og sömuleiðis fyrirlitning sjálfra vor á sjálfum oss.

Slík persónuleg tilfinning veitir réttlætismeðvitundinni ávallt aukið afl, sem annars vantar svo stórvægilega. Og kemr

þetta sterkast fram, þá er persóna sú, sem tilfinningin snertir, er g u ð sjálfr.

Því verðr þannig ekki neitað, að hið ópersónulega samband mannsins við réttlætishugmyndina dugir ekki til þess út af fyrir sig að opna hinar dýpstu uppsprettur lífsins eða hræra upp í djúpi lífsaflanna.

Aðalgallinn við hina nýju siðafræði, sem svo margir aðhyllast á vorri tíð, er þetta, að hún tekr manninn út úr hinu persónulega siðferðissambandi, sem hann stendr í við guð, og setr ópersónulegt samband við hugsjónina í staðinn.

Nýju siðfræðingarnir álíta þetta framför. Með því að fornöldin var yfir höfuð barnsaldr mannkynsins, þá halda þeir því fram, að allt í hinu andlega lífi fornaldarinnar hafi verið barnaæði, sem nú sé sjálfsagt að losa sig við. Það er satt, að allt birtist á þeim dögum í barnalegum myndum, og þeim myndum getr hver sem vill sleppt. En af því leiðir ekki neitt, að því er innihaldið eða málefnið snertir. Barnið flýrast við föður sinn og móður sína. En mun nokkuð elskan til föður og móður fyrir það verða kölluð barnaleg? Það er barnalegt að dýrka guð með fórnum og hlýða honum með tómri boðorðahlýðni án þess hugsjón hinnar siðferðislegu lögmálskröfu sé uppgengin fyrir manni. En að álíta guð sjálfan út af því barnalegt hugmyndasmíð eða sleppa sambandinu við hann og setja ópersónulegt hugsjónarsamband í staðinn, það er ekki að losa sig við hið barnalega, heldr að láta líf sitt hníga niðr á lægra stig. Hinn persónulegi lifandi guð er drottinn vor og dómari eins eftir sem áðr. Munrinn er að eins sá, að barnið skilr ekki, h v e r s v e g n a guð býðr eða bannar einmitt eins og hann gjörir. Barnið spyr ekki eftir neinni annarri orsök; að guð vill það, það er því nóg. Vér hinir fullorðnu s k i l j u m nú guð. Vér skiljum, að það, sem guð vill, er ekki að kenna neinu ráðríki hjá guði, heldr á það hinar djúpu rætr sínar að rekja til hins frjálsa eðlis hans og sjálfra vor. Það, sem guð vill, er nákvæmlega hið sama og það, er vakir fyrir æðstu hugsjón sjálfra vor. Í þessari n ý j u s j ó n v o r r i er fólgin framför fullorðins aldrsins fram yfir það, sem var á barnsaldrinum. Þetta er vaxtarframför. Á *afstöðu* sjálfs lífsins hefir þar á móti engin breyting orðið, og á

ekki að verða. þetta skilja nýju siðfræðingarnir ekki. Og það skilningsleysi hefir margar óheillavænar afleiðingar.

það stendr í sambandi við hin andlegu einkenni vorrar tíðar yfir höfuð að tala Vísindin eins og þau voru áðr, hin tilbúnu vísindalegu kerfi fyrri tíða, létu sér nægja hugsunarfræðislegar upptalningar og yfirlit eins og þá tíðkaðist. Vísindi nútíðarinnar vilja ná skilningi á eðli hlutanna. það leiddi því af sjálfu sér, eftir að þau höfðu rutt sér til rúms, að menn gátu ekki lengr gjört sig ánægða með fornar kenningar, —ekki fyr en gild rök voru færð fyrir því, að þær væri áreiðanlegar.

þá er svo var komið, mátti búast við því, að meira tillit yrði tekið til sambands mannsins við hinar siðferðislegu hugsjónir heldr en sambands hans við guð persónulega. því að með hinni persónulegu kröfu frá guðs hálfu til mannsins var engin ástæða færð fyrir því, hvers vegna það eða það var af manninum heimtað.

þessi breyting á aðferð vísindanna táknar heilmikla framför. það er framför í þekkingarlegu tilliti og hefir eins og öll önnur sannkölluð framför leitt til meira frelsis. En framför þessi ætti að geta fengizt án þess lífskraftrinn og hið siðferðislega þrek dvínaði um leið. Áhugi vor á því að fá skilning á lögmáli því, er guð fer eftir í kröfum sínum til vor, ætti ekki að koma oss til að gleyma því, að það er þó g u ð, sem í öllu þessu er við að eiga.

En þannig hefir það gengið. Lítið auga fyrir hinu trúarlega hafa ekki að eins þeir menn, sem á vorum dögum hafa gleymt guði. þeir menn, sem í raun og veru lifa kristilegu lífi, hafa einnig orðið fyrir áhrifum af þessari breyting. það er eins og ekki sé rúm nema fyrir einn straum í lífi voru. Annaðhvort er meðvitund vor um persónulegan guð hjá oss lifandi, á þann hátt, að vér ávallt finnum til hans eins og persónu ; óttinn og elskan á vora hlið, dómrinn og fyrirgefningin á guðs hlið ; — en þá finnum vér lítið til þess, að vilji guðs er sama sem h u g s j ó n vors innsta eðlis. Ellegar vér finnum oss í allri framkomu vorri, öllu lífi voru og allri lífsstefnu vorri af kærleik hjarta vors bundna við hinar háu hugsjónir kristins lífs svo sem það, er samhljóða er hinu sanna eðli voru ; — en þá dofnar yfir meðvitundinni um hinn persónulega guð. Vér finnum til v e i k-

leika vors og syndar vorrar, en fyrir dómi og brennandi reiði persónulegs guðs höfum vér litla tilfinning.

það ber vott um heldr lítinn fullkomleglejk hjá oss, þetta.

Vonanda er, að þessi ófullkomleikr hverfi aftr, þegar vér komumst út yfir tímamót þau, er nú standa yfir. þegar einhver ný hugmynd ryðr sér til rúms í mannssálinni, þá hljóta sannarlega hinar eldri hugmyndir að þoka fyrir henni um tíma. Og það er von vor, að þegar kristnir menn hafa vanizt því að finna til sambands þess, sem er á milli þeirra og guðs, eins og sambands við réttlætishugmyndina, og til boðorða guðs eins og æðstu hugsjónar þeirra eigin lífs, þá muni guð sjálfr persónulega aftr koma fram í hjörtum þeirra í allri sinni hátign, í öllum konungdómi sínum og öllu sínu refsanda réttlæti. þessa von hljótum vér að hafa; því að þar sem í sannleika er kristilegt líf, þar hlýtr þetta að verða.

Og það heyrir líka til hinum óendanlega mikilleik guðs, að hann hefir við oss þolinmœði og biðlund, þótt vér um hríð missum sjónar á því, hver hann er, ef vér í veikleik vorum gjörum það óafvitandi.

Á skilning manna á friðþægingunni hefir breyting sú, er nú hefir verið bent á, beinlínis haft eyðileggjandi áhrif.

Vantrúarmenn nútíðarinnar segja, að hún geti eigi staðizt með siðalögmálinu. Áðr gat það, segja þeir, verið rétt frá siðferðislegu sjónarmiði að tala um friðþæging, á þeim tímum nefnilega, þegar mennirnir voru börn og ímynduðu sér, að þeir hefði móðgað guð. þá var það í samhljóðan við hinar siðferðislegu skoðanir manna, að hegning, fullnaðarhegning, hlyti að koma fyrir syndirnar, yfir þann, sem brotið hafði, eða í hans stað yfir einhvern annan saklausan, til þess að reiði guðs aftr gæti horfið. En nú erum vér ekki lengr börn, segja þeir. Siðferðislögmálið heimtar enga hegning fyrir það, sem mönnum hefir yfirsézt, heldr breyting á hugarfarinu og það, að bœtt sé úr tjóni því, sem af brotinu kann að hafa hlotizt. Og kristnir menn á vorri tíð nálgast þessa trúarskoðan, ákaflega margir.

Sá var tíminn — fyrir einum 25 eða 30 árum, að prédikað var í landi voru aftrhvarf og iðrun og brennandi reiði lifanda guðs. þá var viðkvæðið: skelfilegt er að falla í hendr lifanda guðs. Engar efasemdir heyrðust þá frá kristnum mönnum

friðþægingunni viðvíkjandi. Hún var þá þvert á móti hjálpræðishella þeirra, uppspretta sú, er ný von og gleði og djörfung sífellt streymdi frá. Síðar dofnaði yfir þessum boðskap; hann missti meir og meir afl sitt. Og loks varð ekki annað til í guði eftir því, sem menn ímynduðu sér, en tómr kærleikr og fyrirgefning. Orðið „hegning“ þótti úrelt og hvarf, og að segja, að nokkuð, sem fyrir komi í lífi manna, sé syndahegning, hefði verið álitið óhœfa. Þá sjaldan eitthvað þvílíkt heyrðist, ypptu menn við því öxlum, tóku því með þegjandi fyrirlitning eins og úreltum boðskap, er ekki væri framar frambærilegr. Afleiðingarnar sýndu sig í siðferðislegri deyfð og tilhneiging til að láta trúarlífið fyrir berast að eins í tilfinningunni. Nú erum vér aftr farnir að leitast við að láta siðalögmálið koma fram í kristindómi vorum, leggja áherzlu á aftrhvarf, og heimta í alvöru, að lífið sé í samrœmi við hina œðstu hugsjón. Og menn eru farnir að dœma sjálfa sig og sýna alvarlega viðleitni eftir því að vera kristnir menn.

En sjáið þér ekki, hve mikið er misst? Sjáið þér ekki, hvað það er, sem komið hefir kristnum mönnum til að hugsa nærri því eins og nútíðarmennirnir utan kristninnar? — hvernig á því stendr, að mönnum finnst friðþægingin vera á móti siðferðislögmálinu? Menn hafa naumast eigin reynslu fyrir því á þessari tíð, að guð sé vandlátr guð, að það sé skelfilegt að falla í hendr lifanda guðs. Fyrir þessa orsök er það, að friðþægingin er orðin óþörf, það er að segja: mönnum finnst hún vera óþörf. Það má þá hér um bil standa á sama, hvort sagt er, að hún sé á móti siðferðislögmálinu, ellegar að hún verði ekki samrímd við skynsemina, eða hvað annað, sem haft er á móti henni. Það, sem menn hafa enga þörf á, helzt að eins við að nafninu um hríð þangað til fyrnzt hefir algjörlega yfir það. Það aftr á móti, sem menn þarfnast eins og óhjákvæmilegs lífsskilyrðis, stendr fast, hvernig sem reynt er til að ryðja því á burt; það sýnir sig vera bæði skynsamlegt og í samrœmi við siðferðislögmálið — það er að segja í augum þess manns, sem þarf þess við. Og enda þótt hann um stund ekki geti gjört sér ljósa grein fyrir því, fyrir þá sök að öll andastefna og hugsunarháttr tímans er á móti honum, hlýtr hann þó að viðrkenna virkilegleik þess sökum v a l d s þess hins mikla, sem það hefir yfir lífi hans.

það eru þannig tvær andlegar stefnur, sem sameiginlega hafa orðið orsök til þess að friðþægingin hefir eins og horfið út úr trúarlífi kristinna manna í nútíðinni. það er hin almenna tilhneiging, sem tíðarandinn hefir skapað, til að láta hið persónulega samband milli mannsins og guðs hverfa og í þess stað setja manninn í samband við ópersónulega réttlætishugmynd. Og það er hin einstrengingslega áherzla, sem menn á seinni árum í boðskap kristindómsins hafa lagt á kærleik guðs. þetta síðar nefnda hefir deyft hjá mönnum hugmyndina um heilagleik og réttlæti guðs; en hið fyr nefnda hefir deyft hjá mönnum meðvitundina yfir höfuð um tilveru persónulegs lifanda guðs.

Fúslega skulum vér kannast við það, að báðar þessar andlegu stefnur eiga sögulegan rétt á sér. En það skal eins fyrir því mjög sterklega tekið fram, að með því að láta þær fá annað eins einveldi eins og þær nú hafa fengið, hafa menn lent í gönur, og að þetta hefir leitt til siðferðislegrar veiklunar.

það mun æfinlega reynast satt, sem menn fornaldarinnar höfðu svo lifandi tilfinning fyrir, að guð er herra mannsins, hinn hátt upphafni, voldugi, vandláti drottinn, sem eigi líðr það, að lögmál hans sé brotið, og að guð er lifandi persóna, en ekki að eins ópersónuleg hugsjón, og krefr því manninn til ábyrgðar fyrir líf hans.

Vitið þér, tilheyrendr mínir, hvað það þýðir, að guð krefr mann til ábyrgðar? Hefir nokkur yðar reynt það? Hafið þér persónulega fundið til r e i ð i g u ð s ? þá fyrst, ef svo er, vitið þér í raun og veru, hvað s y n d er. Sá maðr, sem þetta hefir reynt í sínu eigin lífi, hefir líka meðvitund um það, hvað friðþægging þýðir, hvað útheimtist til þess að friðþægt sé fyrir syndina. Hér er ekki um það að rœða, að bœta aftr skaða þann, er maðr kann að hafa valdið, þó að manni væri það unnt; né heldr um það, að lifa framvegis, þótt þess væri kostr, í hlýðni við vilja guðs í hverju minnsta smáatriði; né heldr um það að iðrast og taka algjörlega nýja viljastefnu, þó að það kynni að heppnast. Alls þessa er auðvitað líka af manni krafizt og það algjörlega afdráttarlaust. En það er allsendis ónógt. Og því síðr nœgir það, þar sem manni er í raun og veru allt þetta um megn. Allt, sem maðr hefir að bjóða, er að eins hálfverk. Og þá á maðrinn

einskis annars kost en að falla í hendr hins lifanda guðs og þola þjáning þá, sem er hegning fyrir syndina. Dauði er þessi þjáning kölluð, en dauðinn er ekki fólginn í því að sál og líkami skiljast að, og ekki heldr í því, að afleiðingarnar af ranglætisbreytni vorri koma yfir oss í þessu lífi. það út af fyrir sig getr verið nógu átakanlegt að vita einhvern, sem oss þykir hjartanlega vænt um, taka svo eða svo mikið út sökum breytni vorrar. En það allt er þó ónógt. Nei, enn önnur þjáning er til, og hún er í því fólgin, að bera reiði guðs og finna til hennar, heyra rödd sinnar eigin samvizku fella yfir sér sama dóminn, svo maðr hlýtr sí og æ að sakfella sjálfan sig og gengr stöðugt með þeirri meðvitund, að allt þetta sé einungis manni sjálfum að kenna. þetta er að hafa tilfinning af syndinni; dauðinn felr allt þetta í sér. Í þessu lífi geta þessar þjáningar verið svo miklar, að maðr verði út af þeim brjálaðr, ef þær haldast lengi. En þegar dauðinn er kominn, verðr enginn framar brjálaðr; en sársaukinn og þjáningin fylgir manni.

Engin friðþæging kemr hér til greina; maðrinn hreppir það, sem hann hefir verðskuldað.

En sá, sem hefir í alvöru fundið til einhvers af þessu, fyrir þá sök að hann hefir reynt það sjálfr, fellr þakklátr á kné, þegar fagnaðarerindi kristindómsins boðar honum það, að t i l s é friðþæging. Guðs eigin sonr hefir í staðinn fyrir hann dauðann þolað. Guð býðr honum nú sjálfan sig, svo að hann fái lifað; fyrirgefning synda sinna skal hann fá, fullkomna uppgjöf syndanna, og um leið fær hann að lifa.

Friðþægingin er óumræðilegt orð fyrir þann mann, sem þegar hefir reynslu fyrir því, hvað það er að vera undir reiði guðs og þola dauðann. Oss fer, að því er þetta orð snertir, eins og Söru. Hún gat ekki trúað því, að h ú n skyldi son ala. Vér getum ekki trúað þessu orði — fyrir furðu og fagnaðar sakir. En orðið er þó sælufyllra en svo, að vér fáum sleppt því. Aftr og aftr þrýstum vér því að hræddu og kvíðanda hjarta voru. Og loks hefir það f e s t r œ t r í v o r u m i n n r a m a n n i, og það l æ k n a r ö l l v o r m e i n, f œ r i r o s s f ö g n u ð og g j ö r i r o s s s æ l a,

Að þessi friðþæging er ekki á móti hinu siðferðislega lögmáli, það sést á áhrifum þeim, sem hún hefir á líf mannsins.

það, sem í eðli sínu er andstœtt siðalögmálinu, hlýtr og að hafa illar, ósiðferðislegar, afleiðingar. Hitt aftr á móti, sem eingöngu hefir góðar afleiðingar í siðferðislegu tilliti, getr í sjálfu sér með engu móti verið illt eða ósiðferðislegt. Og afleiðingarnar af friðþæging Krists eru auðsæjar. Vér getum séð þær á postulum drottins; og þær verða allt eins síðar fyrir oss í lífi allra þeirra manna, sem í sannleika eru alkristnir. Friðþægingunni er samfara algjör siðferðisleg endrnýung. Ekkert vantar þar af því, sem nútíðarsiðfrœðingar vorir heimta, hvorki hinn fúsa vilja til að bœta aftr að fullu skaða þann, er af brotinu hefir leitt, né heldr það að vera fús til að bera hér í þessu lífi hverja afleiðing sem vera skal af hinni röngu breytni vorri; ekkert er það, sem maðrinn eigi vilja leggja á sig, engin sú barátta, að hann vilji ekki út í hana ganga, til þess að líf hans geti verið nýtt líf, heilagt, hreint, kærleiksfullt og gott. En það, sem heldr hinu nýja hugarfari og hinum fúsa vilja uppi, það er þakklæti og elska til guðs, sem aumkaðist svo hjartanlega yfir oss og sýndi oss að fyrra bragði svo mikla elsku, og til frelsarans, sem gekk í dauðann í vorn stað.

Að hugsa sér slíka endrnýung hins innra lífs sprottna upp af ósiðferðislegri rót, það er blátt áfram heimskulegt.

Það er ekki ósiðferðislegt að bjarga hjálparlausum manni, ef honum í raun og voru með því er b j a r g a ð og hann aftr er reistr við til tignar þeirrar, er honum ber sem manni. Að leysa úr þeirri spurning, hvort þetta geti orðið fyrir þá sök, að annar þolir dauðahegning í vorn stað, um það erum vér eigi fœrir að dœma upp á eigin býti, getum af eigin rammleik hvorki sannað það eða hrakið það. Vér verðum í þessu efni eins og öllum öðrum að álykta af því, er kemr fram í reyndinni. Það er hverju orði sannara, að hina siðferðislega meðvitund vor heimtar, að vér kennum sjálfum oss athafnir vorar og ástand vort; hin siðferðislega meðvitund vor krefr oss til sjálfsábyrgðar. En sé nokkuð til, er hiklaust má staðhœfa, þá er það það, að hinn kristilegi hjálpræðisboðskapr út af hinum friðþægjanda dauða Krists heldr hinni persónulegu sjálfsábyrgðartilfinning við og brýnir hana, — langtum langtum fremr en allt það, er nútíðarsiðfrœðingarnir hafa komið með sjálfsábyrgðinni til stuðnings. Og þar sem það nú sýnir sig, að kröfur þær, er koma til vor úr þeirri átt, hrinda oss að eins út í opinn dauðann, og að frelsanin, sem veitist fyrir friðþæginguna, ekki veikir sjálfsábyrgðar-

tilfinninguna, heldr skerpir hana, þá liggr í augum uppi, að hin siðferðislega meðvitund getr ekki að neinu leyti verið meidd með friðþægingunni, og þá hefir hugsan vor ekki heldr neinn rétt til að koma með þá aðfinning. Þvert á móti verðr hugsanin að ganga út frá því, er sí og æ hefir komið fram í reyndinni, að mennirnir komast í sátt við guð fyrir dauða Krists í þeirra stað, samkvæmt boðskap nýja testamentisins. Og því næst liggr sú skylda á hugsaninni, að leitast við eftir megni að skyggnast inn í eðli lögmáls þess, er undir niðri ræðr í hinu siðferðislega lífi, hinu guðlega og mannlega. Og er þá eigi óhugsanda, að henni takist að læra að þekkja hinn ýmsa lífsvirkilegleik, sem þar er starfandi. Með því að halda sér að eins við yfirborð hlutanna, eins og hugsan þessara nútíðarmanna gjörir, ber hún ekki annað úr býtum en gjöra sjálfa sig hlœgilega.

Árásir þær, er friðþægingin hefir orðið fyrir, og tilraunirnar, sem gjörðar hafa verið til þess að losa sig við hana, stafa allar af því, að lífsreynsla manna í andlegum efnum er nú orðin svo miklu daufari en áðr var. Af sjálfu sér mun vörnin koma frá djúpi hjartans, þegar menn eru aftr teknir til að lifa með hinum lifanda guði, ekki í einstaka atriði að eins, heldr yfir höfuð að tala í siðferðislegi alvöru, samvaxnir við hann í dýrð hans og náð.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; fyrsti ársfjórðungr 1895.

5. lexía, sunnud. 3. Febr.: Ummyndanin: Lúk. 9, 28—36.
6. lexía, sunnud. 10. Febr.: Kristr og börnin: Matt. 18, 1—14.
7. lexía, sunnud. 17. Febr.: Hinn miskunnsami Samverji: Lúk. 10, 25—37.
8. lexía, sunnud. 24. Febr.: Kristr og maðrinn, sem blindr var fœddr: Jóh. 9, 1--11.

---

Til bókasafnsins: Jónas Samsonarson $2.00, Þorsteinn Jóhanneson $2,00.

---

Hr. *Sigrbjörn Sigrjónsson*, 164 Kate St., er innköllunarmaðr *Sam.* og sendir hana út.

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave. Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Blöndal

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.